# REGLEMENT

## Fyrer Baada

# Latinu-Skolana

## A Islande.

**Vier Christian sa Siötte** af Guds Naad/ Kongur til Danmerkur og Noregs/ Vinda og Gauta/ Hertuge wti Sleßvijk/ Holstein/ Stoormarn og Dytmersken/ Greife i Oldenborg og Delmenhorst. Giörum öllum Vitanlegt, ad sö sem Vier i Vorre aadur Fyrr af 3. Maij 1743. wtgiefeñe Allra-Naadugustu Tilskipan um̃ Latinu-Skolana aa Islande, sierdeiles i heñar 46. Articula, höfum til Naakvæmre Allra-Naadugustu Naadstöfunar wtelaated, hverneñ med Skoola-Þienara og Skoola-Barnaña Naudsynleg Hijbijle og Forsorgunar-Maata, med fleira, skule hier epter halldast; Þa vilium Vier nu þar um̃ soleidis hier med Allra-Naadugast hafa tilskipad og fast sett.

### 1. Um̃ Fæde. aa Suñudageñ.

Um̃ Morguneñ aadur eñ Skoola-Pilltarner gaanga til Kyrkiu, skal þeim giefast i Morgun-Skatt, Fiskur og Smiör. Til Middeigis Fyrste Riettur Fiskur og Smiör, Añar Riettur Spad, ellegar þa þad er ecke til, Ertur og Kiöt. Um̃ Kvöllded (1.) Fiskur og Smiör, (2.) Biggrioona Vatns-Grautur med Smiöre eda Mioolk wtaa.

### A Maanudageñ.

Til Middags (1.) Fiskur og Smiör, (2.) Mel-Grautur med Mioolk wtaa. Um̃ Kvöllded, (1.) Fiskur og Smiör, (2.) Skyr og Mioolk.

### A Þridiudageñ.

Um̃ Middeiged, (1.) Fiskur og Smiör, (2.) Ertur med Kiöte. Um̃ Kvöllded (1.) Fiskur og Smiör, (2.) kallder Sundmagar.



A Midviku



## A Midvikudagen̄.

Um̄ Middeiged, (1.) Fiskur og Smior, (2.) Spad med Kiøte. Um̄ Kvollded (1.) Fiskur og Smior (2.) heitur Sallt-Fiskur.

## A Fim̄tudagen̄.

Um̄ Middeiged, so sem til Middags a Pridiudagen̄. Um̄ Kvollded (1.) Fiskur og Smior, (2.) kalldar edur heitar Pylsur, epter sem þa kan̄ Hentugleike ad vera til.

## A Føstudagen̄.

Um̄ Middeiged (1.) Fiskur og Smior, (2.) Mel-Grautur, ellegar so framt han̄ er til, Boghveite-Vellingur. um̄ Kvollded (1.) Fiskur og Smior, (2.) Hnacka-Kwlur, edur Plock-Fiskur.

## A Laugardagen̄.

Um̄ Middeiged (1.) Fiskur og Smior, (2.) heitar Pilsur. Um̄ Kvollded (1.) Fiskur og Smior, (2.) Skyr med Mioolk wtaa. Fyrer utan̄ þetta, giefest til hvorrar Maaltijdar ein Portion af Braude, an̄adhvört Kokur, ellegar Skips-Braud, til sierhvors þeirra, so og Blanda, so myked sem Daglega þarf til Skoola-Pilltan̄a. Lijka og so giefest Frij-Lioos i Skoolan̄ handa þeim Beneficerudu og handa Kien̄endunum, og skulu og an̄ars Kien̄endur og Skoola-Pilltar a Hausten̄ um̄ Slaatur-Tijman̄ edur under Joolen̄, vera aanægder med þad, sem um̄ þan̄ Tijma af Pilsum, In̄iflum, Sauda Høfdum og Musle verdur sett fyrer þa, þa þad er forsvaranlega tilbwed. A þeim Tijma sem Skoolen̄ er ecke hallden̄, skulu Kien̄endurner i sama Maata hafa forsvaranlegan̄ Kost, so leinge þeir eru a Biskups-Stoolnum, og þar fyrer utan̄, epter gamallre Veniu, hvor fyrer sig, Eirn Pott Mioolkur um̄ Morgun, og An̄an̄ um̄ Kvolld.

## 2. Um̄ Fatnaden̄.

Sierhvorium af Ølmusu Discipulunum, skal Arlega giefast Gratis, (1.) ein Peisa til 40. Fiska, (2.) Einar Under-Bugsur til 20. Fiska, (3.) Tven̄er Sockar, Pared til 8. Fiska. (4.) Ein Skyrta til 28. Fiska. (5.) Skoo-Ledur, so leinge þeir eru i Skoolanum. Hvors þeir an̄ars vidþurfa af Utan̄hafnar-Føtum, hafa þeir sialfer ad wtvega sier; Og skulu þeir um̄gaangast hreinlega og forsvaran̄lega, sierdeilis med þad sem þeim er giefed, Fordiarfe nockur þad af Asetninge, skal soddan̄ eirn epter skieda Advorun og forgiefens giordar Amin̄ingar, af Skoolanum wtrekast, sem saa er foraktar Vora Konungl. Naad. Saum-Fatnadenum, so vel sem þeirra eigen̄, sem þeir sialf.r med koma, skal epter Veniu halldast vid, og bætast af Eirnre af Biskupinum þar til skickadre Persoonu, hvor og skal sorga fyrer Discipulan̄a Hreinlæte, og Pvotte. Kien̄endan̄a Fatnadur halldest vid af somu Persoonu, sem og þvær fyrer þa.

Sierhvört Rwm sem Discipularner liggia i, skal vera forsorgad med Epterfilgiande Sængur-Føtum: Ein̄e Vadmaals Under-Sæng med Heye i. Ein̄e Vadmaals-Sæng med Fydre. Einu Vadmaals-Hægende med Heye i. Einum Dijnuvers-Kodda med Fydre, og eins fyrer þan̄ sem liggur til Foota, Einum Vadmaals Reckiu-Vodum. Einu Brekane; Sømuleidis er laated til Eitt Vatns-Handklæde i hvört Camertz. Til Eirnrar Soottar-Sængur skal laatast an̄ad eins og so margt sem vid kan̄ þurfa.

Til

Til Rectoris og Conrectoris Sængur skal lækast handa hvorium, Tvær Fydur-Sængur, Tvo Fydur-Hægende, Eirn Svæfill med Lerepts-Vere, Tveñar Hvijlu-Voder af Vadmaale, Eitt Brekan, Eitt Hand-Klæde, Ein Muñlaug.

## 3. Uñ Skoola-Hws og Hybijle.

Pau Naudsynlegu Hws til Skoolahalldsens, sem af Vidkomande Biskupe skulu halldast vid og i forsvarañlegu Stande; Og giefast Kieñendum og Lærendum aldeilis frij, skulu vera Epterfylgiande.

1. Ein Lestrar-Stofa, edur Skoole, adskileñ i Tvo Classa, og hvør Classe vera med þiliudum Veggium, og Naudsynlegum Beckium og Borde fyrer Skola-Pilltana. Millum Beckiaña skal vera Gaang-Rwm, hvar Kieñendurner giete geinged, Paked ad iñañ sie so þiett swdad med Bordum, ad þad hallde Vatne, og Goolfed sie forsvaranlega lagt, ad Sudda og Vessa, so myked møgulegt er, verde aptrad, So skulu og Gluggarner vera af Glere.

2. Sængur-Stofa, sem skal vera hiaa Skoolanum, og so stoor, ad bæde Beneficiati, og hiner, giete komest þar tilhlijdelega fyrer, Sømuleidis þar fyrer utañ, hafe Sængur-Stæde Platz og Naudsynleger Kistlar. Sængur-Stædeñ skulu vera sundurþiliud, med Hurd fyrer, sem verde lokad iñañ til med Hespu eda Krook, uppaa þad, ad þa Eirn Skoola-Pilltur vill skrifa, lesa edur meditera nockud fyrer siaalfañ sig, hañ giete vered þar iñañ luktra Dyra; Po skal hañ alltijd hafa þar fyrst Leife til, af þeim honum kieñer, og giora honum Skil aa þvi sem hañ hefur teked sier þar fyrer; Eñ giore hañ þad Leifislaust, eda þad verde Openbert, ad hañ hafe teked sier þar nockud Osæmelegt fyrer, þa skal hañ straffast epter þvi sem Yfersiooneñe er haattad.

Veggerner i Sængur-Stofuñe, skulu so vijdt Sængur-Stædeñ naa, vera þiliader, og þar aa Booka-Hilla, eñ Gluggar skulu vera epter vidteknum Sid, añars skal bæde Skoolanum og Sængur-Stofuñe halldast hreinum af Skoola-Pilltunum fyrer Snioo og Vatne, ad þau faae þar af aungvañ Skada; Og skal þad vera Skoola-Pilltunum under stort Straff, fyrerboded, ad reykia i þeim Tobak, uppaa þad ad ecke af nockurs O-adgiætslu skule Skade Ordsakast.

3. Stofur Kieñendaña, sijn handa hvørium, skulu vera uppyfer Skoolanum, eda Sængur-Stofuñe, og þiliadar med Swd, Sømuleidis hvør þeirra med Borde og Beck og eirne upphweñe Sæng epter Porfum og Naudsyn, So skulu og þessar Stofur vera med Gler-Gluggum.

4. Ein Bord-Stofa, hvør ad skal vera so stoor, ad hvør Classe giete haft sitt Bord ad faa sier Mat vid, og Becke ad sitia aa. Til sierhvørs Bords skal leggiast hvørn 8. da Dag, hreirn Bord-Dwkur til Daglegrar Brwkunar, so sem Tin edur Tre Skierdiskar, Spæner, Dryckiar-Kaña, allt hreint og skickañlegt. J sømu Stofu skal eingeñ iñkoma aa medañ Kieñendurner og Skoola-Pilltarner faa Mat, utañ þad Foolk, sem þar Eigenlega tilheyrer og fram ber Mateñ, ad eingeñ O-Regla skule añars Ordsakast.

5. Ein Soottar-Stofa handa þeim Skoola-Pilltum sem verda siwker, ad þeir þar i kuñe ad hafa Tilbærelega Pioonustu, so leinge sem þeir eru veiker og kuña ei ad byggia Eina Sæng med þeirra Legunautum.



Allar

Allar þessar aadur-nefndar Stofur og Hws, skal sierhvørs Stools Biskup vera skylldugur, soleidis sem befalad er, ad iñrietta og ad uppbyria þad strax, samt hid allra fyrsta møgulegt er ad fullgiøra þau. Og ad þetta þvi audvelldlegar og hagañlegar skie kuñe, Viliuin Vier Allra-Naadugast hafa Epterlaated, ad sierhvør Biskupaña, meige af þeim Capital sem vid hvørn Biskups-Stool stendur i Forvaring, og er tilheyrande Inventario, taka Eitt Hundrad Rixdale til ad koma Verkenu þvi fyrer af, og gieta Tafarlaust sett Hwseñ i Stand, med hvad ad strax skal byria, hvørt Laan Biskupeñ, edur hañs Erfingiar epter Hendeñe, skal aptur betala til Inventarium, so ad su heila Summa kuñe ad verda Til-løgd iñañ 10. Ara Frests, og ef nu verande Biskup iñañ þess Tijma skyllde vera fraafalleñ, skulu hañs Erfingiar og Successor, betala so myked sem sierhvorium epter Ara-Toluñe, þar af kañ tilheyra ad til-leggia. Og uppaa þad, ad øllu framañstandande Naakvæmlega og Tilbærelega Allraunderdanugast kuñe ad verda Epterlifad, skal so vel Vor Amptmadur, sem Vidkomande Løgmadur, hafa Tilsioon, og Arlega þar um̃ inqvirera, samt Reikningskap begiera; So skulu og Kieñendurner i þeim Tveimur Latinsku Skoolum, nær þad ecke i øllum Postum er fullkomnad, fyrst giøra Skriflega Avijsun þar um̃ til Biskupsins, uppaa þad, ad þar verde strax raadeñ Boot aa, og so framarlega sem þad ecke skiedur, skulu þeir tilkiña giefa þad Amptmañenum, ef þeir vilia þar ecke siaalfer til svara, þa þeir fiñast hier i Forsoomunarsamer, og ad siaa i giegnum Fijngur, hvar epter Vidkomendur sole.dis, sem Fyrskrifad stendur Allraunderdanugast hafa sig ad rietta og hallda, Ei giørande hier i Hindran eda Uppehalld i nockurn Maata, Under Vora Hollustu og Naad. Giefed aa Hirschhoolms-Slote

10. Junij 1746.

## Under Vorre Konunglegre Hende og Signete.

# Christian R.



Epter Allra-Naadugustu Skickan til mijn underskrifads, Dateradre 10. Junij 1746. aa Hirsch-Hoolms-Slote, er þetta Allra-Naadugasta Reglement fyrer Baada Latinu-Skoolana aa Islande, þañig sem hier siest, wtlagt aa Islendsku, epter þvi Danska Exemplare, og laated wtgaanga aa Prent.

Test. Hoolum D. 11. Octobr. 1746.

HALLDOR BRINIOLFS-SON.

* * *
** ** **